J. N. J.

# Forordning
## Um
# Huus=Vitianer
## a
# Islande.

HIRSCHHOLMS-Slote þañ 27. Maji Anno 1746.



Pryckt a Hoolum i Hialltadal Anno 1746.

**Vier Christian sa Siotte/ af Guds Naad/ Kongur til Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta/ Hertuge i Slesvijk/ Holstein/ Stormarn og Dytmersken/ Greife uti Oldenborg og Delmenhorst/ etc.** Giorum ollum Vitanlegt: ad, jafnvel þott med Vorre Allranaadugustu Forordning um̃ Catechisation fyrer Ung-Bornunum aa Voru Lande Islande, dateradre þan̄ 29. Maji 1744, i heñar 14. Art: sie befalad, ad Huus-Vitian skule halldast af Geistlegheitunum þar i Lande, þa hofum vier þo nu funded, ad Vier orsokunst til, um̃ soddan̄ Huus-Vitianer eñ þa nækvæmlegar ad tilskipa og befala, so sem Vier og hier med Allranaadugast tilskipum og befolum:

1.

Prestarner aa Islande skulu hvor eirn fyrer sig vera skillder til, i minsta Maata Tvisvar aa Aare, ad vitia þeirra Safnadar i þeirra Huus og Hijbijle, og þad hvors Huuss og Bwstadar i þeim sama; Eñ, hvar Soknen er Lijtel, ellegar eingen Annexia finst, skal han̄ optar taka sier fyrer þessa Naudsynlega Hondlun, hvar med Profasturen̄ i hvoriu Hierade skal hafa kostgiæfelega Tilsioon, og somuleides Biskupen̄ med sierhvoriu Tækefære Alvarlega tilhallda honum vidkomande Profostum og Prestum, ad þeir forsome hier eckert i. Fiñest nockur Prestur Vanræken̄ þar i þa aamiñest han̄ i fyrsta Siñe af Profaste, eñ verde þad an̄ad Siñ, þa mulcterest han̄ epter sijns Kalls Iñtekt og siñe Formegan, hvorre Peninga-Mulct ad vixlast skal til Faatækra Barna Uppfrædingar.

2.

Tijmen̄, a hvorium þesse Hws-Vitian skal fram̃ fara, er Prestenum leift Siaalfum ad wtvelia, þo so ad þar til sieu wtsieder þeir Tijmar aa Aarenu, sem Soknar Foolkenu eru hentugaster, og þad er sem allra flest heima, uppa þad ad Nytsemden̄, hvar ad allt lijtur, faae orded þess stærre.

3.

Adur eñ þesse Hws-Vitian byriast, skal Presturen̄ samanbera vid sijna Medhiaalpara og af þeim san̄ spyria Asigkomulag sierhvors Heimiles og Personu, uppa þad ad han̄, fyrer fram̃ giete haft þeim mun vissare Underriettung um̃ eins og sierhvors Framferde; Og skulu Medhiaalpararner vera skillder til, epter Logmaalsens Tilskipan og þeirra Samvitsku, ad giefa til kiña, hvad þeim hier i kan̄ ad vera vitanlegt, hvar a moot um̃ Nofn þeirra, þa þess finst Þorf, skal þagad vera.

4.

Til Medhiaalpara, skulu epter Logunum og vorre Allranaadugustu Forordning um

Cate-

Catechisationer, Artic. 13. Utveliast þeir Uppriguguſtu, beſtu og Umhyggiuſomuſtu Meñ i hvorre Sokn, og ber ongvum, hvort þeir eru Hreppſtioorar, eda Virdingar Meñ, fra þeſſu Embætte undantakaſt, þa þeir eru þar til af Preſtenum wtſieder, ecke helldur byriar þeim þar fyrer ad uppaſtanda, ad frijaſt fra odrum Verſlegum Utriettingum, þar ed Hreppſtioora og Medhiaalpara Utriettingar eru naateingdar hvoriar ödrum, hvar i hvorke a Preſts nie Syſlumañs Siidu byriar ad nockur Hindrun gioreſt.

5.

Preſtureñ ſkal nockrum Tijmum, og hid minſta Suñudageñ fyrer, kuñgiora þad Sofnudenum af Predikunar-Stoolnum, hvorra Hwſa hañ i þeirre Viku ætlar ad vitia, og amiña þa, ad vera heima, og i þeirra Hwſum til Stadar i akveden Tijma; Audſijne ſig nockur i þvi mootfalleñ, og reiſer ad oagtadre þeirre undangeingnu Advorun aan allra naudſynleguſtu Orſaka, i burt fra ſijnu Heimile, edur lætur ſig a añañ Haatt fiña þverbroteñ vid Preſteñ i þeſſare honum tilſkipudu Utriettingu, þa ſkal Preſtureñ giefa þad til vitundar fyrer vidkomande Verſlegu Yfervallde, hvort ed mootmælalauſt ſkal adſtoda hañ, og Mulctera hañ mootþrooanlega i fyrſta ſiñe 2. morkum donſkum, edur meira, epter Sakareñar Aſigkomulage, til Uppfrædingar faatækra Barna; So ſkal og Mulcten vid vidvarande Mootſtrijdu upphæckaſt, Hvort ed ecke einaſta a ad ſkiliaſt um Hwſſ-Fedur og Hwſſ-Mædur, helldur og um Pioonuſtu-Foolk; Somuleides ſkulu Forelldrarner vera ſkylduger til ad giora Reikningſkap fyrer þeirra Born, þa þau fiñaſt ei ad vera til Stadar; Fiñeſt Yfervallds Perſonan ſiaalf Sek i Ohlijdne hier i, ſkal Amtmadureñ, epter Krijngumſtædum, til aadurtiedrar Brwkunar aalijta hañ med tilbærelegu Straffe; Eñ yferfalle nockur Preſteñ a Reiſuñe i hañs Hws-Vitian, edur i odrum Embættes Utriettingum, þa ſtraffeſt hañ, ſo ſem ſa, er yferfellur Preſteñ epter Guds þioonuſtu giord, og ſtande openberar Skrifter, og ſtraffeſt þar ad auke a Kroppenum, hvar med og aller þeir eiga ad aalijtaſt, ſem a eirnhvorn Haatt uppegna nockurn til Ohlijdne a moote Preſtenum.

6.

Aller þeir ſem eru vid Sioo-Siiduna til ad fiſka, edur Veſtmaña-Eyum, eda ſo Kallader Lauſameñ, ſkulu um þañ Tijma þeir dvelia þar, i tillite til þeſſarar Hws-Vitiunar, aalijtaſt ſem Preſtſens eiged Soknarfoolk, audſijna honum alla Hlijdne og Virding, og vera vid þa þad er ecke olldunges Omogulegt. Siijne þeir ſig a nockurn Haatt mootþroanlega Preſtſens Chriſtelegum Amiñingum, þa ſtraffeſt þeir af þeſs Plaats Verſlegu Yfervallde, ſo ſem i 5. Articula aakveded er.

7.

Þa er nu Preſtureñ kiemur nockurſtadar til Huus-Vitiunar, ſkal hñ audſijna ſig Alvarlegañ, Gudhræddañ, Odruckeñ og Vingiarnlegañ, ſo ſem einum Guds Orda Þienara ſomer og ſo Heilagre Handtieran ſem hañ fyrer Hende hefur. Þar a moot ſkal hañ taka ſier Vara fyrer Drambſeme, Sierſiñe, Braadgiede, Stigglinde og Hvepsyrdum, uppa þad þeir eige ſkule aalijtaſt, ſo ſem þeir, ſem Drottna vilia yfer Saalunum, hvar med þeir einaſta giora ſig Foroktunarlega medal añara; Uppa



þad

þad skal honum vera hid Alvarlegasta fyrerboded, ad eyda Tijmanum med Onyt-samlegu Tale og Gamne, edur ødrum Osæmelegum Utriettingum, eñ þa sijdur skal hañ leita Brennevijns edur añars Afeings Dryckiar, hvør honum fyrer utañ Naudsyn skal olldunges vera fyrerbodeñ. Skule nockur Prestur i einum einasta Stad laata fiña sig Olvadañ og Druckeñ, edur a añañ Haatt ad giøra Hneixlan af sier, skal hañ Forsómunarlaust angiefast fyrer Profastenum, og epter yferbevijsudu Otilbære-legu Framferde alvarlega straffast. Ad sijdustu skal þad hier med streingelega vera forboded, ad nockur Prestur æske nockurs i Peningum, Voru edur a añañ Haatt fyrer þessa Utrietting, hvar fyrer ad Tilgangur Verksens, villde til Einskis verda.

8.

Eingeñ, hañ maa vera so Vesæll og Faatækur, sem hañ vera vill, a ad gangast fyrer Bij i þessare Huus-Vitian, helldur a med Alvøru og Kiærleika ad leita eins og sierhvørs hins Saña Besta og Velferdar, so vel Pioonustu-Foolks og Barna, sem Forelldra og añara Yferbodara; Sömuleides eiga ecke Faatæker Betlarar og Um-ferdar-Børn þar fraa ad utelylast, helldur hvar sem helst og i hvøriu Huuse þau fiñ-ast, giefast Giætur ad Gagnsemd þeirra Saaluhiaalpar.

9.

So sem einum og sierhvørium af Tilheyrendunum, hvørs Stands og Kiøra sem þeir eru, byriar ad taka a moote Prestenum i hañs Huus-Vitian med allre Kiær-leiks, Goodvilia og Hlijdnes Audsijning; so skal og eingeñ feila sier fyrer, ad raadgast um vid hañ um Asigkomulag siñar Saalar, og ad openbera fyrer honum þad, sem hañ, i Tillite til Huussens, Barnaña og Pioonustu-Foolksens Asigkomulags, fiñ-ur Naudsynlegt til Endurbootar, hvørt allt Presturen uppa eirn Skinsamlegañ Maata a ad vita og færa sier i Nyt, og þeigia um Nafn þeirrar Persoonu, sem a þoddañ Haatt kyñe honum nockud i Trwnade ad openbera, og þeim Mun helldur Kappkosta, med Einlægu og Skinsamlegu Framferde, ad uppvekia meir og meir Trwnad til sijn hiaa þeim, sem honum eru Tiltrwader.

10.

Yfer Høfud byriar Prestenum vid þessa Forrettning ad hafa þad Auga-Merke, hvørneñ hun, epter a Undangaangande Vidurbuning og Bæn til Guds, kuñe ad utriettast sem allra Uppbiggelegast, uppa þad ad þeir, vid hvøria hañ a ad tala, kuñe ad hafa þa tilætludu Nytsemd þar af; Eñ sierdeiles hefur hañ i hiaa þessare Huus-Vitian ad kiña sier, hvørneñ astatt er i Hwsenu, þad ahrærer Guds Þeck-ing, hiaa Forelldrunum og þeim Yferbodnu, hvørt þeir siaalfer eru fører til, ad upp-fræda þeirra Børn og Undergiefna sem Þorf er til, hvørneñ Maate Uppfrædingar-eñar er Daglega um Hond hafdur, hvørneñ þad, sem i Predikun og Catechisation er umhondlad, er Heima aptur Itrekad, og hvørt þeir vita, ad sijna þeirra Under-hafande ad færa sier þad i Nyt i þeirra Lifnade; Hvar hier kañ nockur Skortur ad fiñast, hefur Presturen, epter sijnum bestu Vitsmunum, i allre Astseme ad giefa þau Naudsynlegu Raad til Endurbootar, hvørt sierhvørium Vidkomande byriar ad lofa,

ad

ad umbæta og til Vara ad taka til næstu Huus-Vitiunar.

11.

Ungdoomureñ, bæde Børn og Pionustu-Folk, skal med allre Kostgiæfne yferheyrast, hvorneñ þau eru i þeirra Christendoome Grundvollud; Uppa þad hid sama, byriar þeim ad lesa þañ Litla Catechismum Lutheri, so ad Prestarner giete lagfært þad, sem ecke hefur vered riett numed, so og Utlegging yfer Catechismum, hvor sem hana hefur lært; Hvar hiaa Prestenum byriar ad giæta þess, sem i vorre Allraunaaduguſtu Forordningu um Catechisationena er Allranaadugast tilskipad |, i heñar 5. og 6. Artic: So ad þeir med allre Adgiætne laate sier vera umhugad ad ransaka, hvort Tilheyrendurner hafe Skin a þvi, med tilbærelegre Eptergrenslan hvorneñ þad er rootfest hia þeim til sañarlegrar Hiartans Umbreitingar. Par fyrer utañ eiga þeir og, ad minsta koste þeir sem eru Booklæser, yferheyrast i þeim Bænum og Psalmum, sem þeir hafa lært utañ ad, hvort þeir hafe Skilning þar a.

12.

Diaconi edur Diaknar a Claustrum skulu lijka i hvorre Viku vitia nockra Bæa edur Hwsa i þeirra Soknum, til ad uppfræda Børneñ i þeirra Christendoome, og sierdeiles ad kieña þeim, ad lesa a Book og adrar goodar Bæner og Psalma, hvar til þeir þar fyrer utañ hafa ad veria þeim Tijmum fyrer edur epter Predikun, a Suñudøgum, og ødrum Helgedøgum, þa Børneñ eru vid Kyrkiu. Til þessarar Reisu i Sooknernar skal Claustúrhalldareñ vera skilldur til, ad skaffa þeim Hest, nær sem oskast, og hefur Diakneñ, sierdeiles epter Prestsens Raade og Skipan, ad wtvelia þau Huus, hvar hañs Naalægdar þarf hellst vid.

13.

Fremur byriar einum Kieñe-Fødur ad laata sier vera umhugad um Egta-Foolks, Huus-Fedra og Huus-Mædra Samfielags Umgeingne og Framferde, hvort þau lifa i Christelegre Einingu hvort vid añad, hallda Morgun og Kvolld Bæner i Huuse sijnu, kostgiæfa Hreinlijfe og Sparseme i Mat og Dryck, vitia kostgiæfelega opeñberrar Guds-þioonustugiørdar, og laata sier almeñelega sañañ Guds Otta vera umhugadañ i þeirra daglegu Erfide; Hvar i hia Prestureñ hefur ad aminña þau ad taka sier Vara fyrer øllu þvi sem kañ ad giefa Hneixle af sier, so sem eru: Oforlijkun, Bløt, Drickiuskapur, Baraatta, Okur og þesshaattar.) Skule hañ hafa nockurt Huus forþeinkt fyrer slijkar edur adrar Synder, a hañ þvi helldur ad kosta Kapps um, med Gudlegum og alvarlegum Fortølum, ad fa slijkt Hneixle og Ogudlegt Athæfe hindrad og afskaffad; Eñ, sie eingeñ Endurboot, epter þridiu Aminñing i Medhiaalparaña Vidurvist, auglioosl ega ad siaa, þa skulu þau wtstanda Kirkiuñar Disciplin, og straffast þar fyrer utañ, epter Astande af þvi Verslega Yfervallde med Peninga Utlaatum til faatækra Barna Uppheldes, eda, ef þau eru so faatæk, ad þau gieta ei betalad, þa med Gapastockuum.

14.

Prestarner skulu og i þessare Hws-Vitian hid wtþrickelegasta setia fyrer Sjooner

Forelldrunum og þeim yferbodnu þa Pligt, sem þeir eru þeirra Børnum og Undergiefnum umskilldugur, so sem umfram allt i tillite til þess Andlega, ad uppaga og leida þau til Otta DRottens, og sier hvorn Dag ad lesa, edur læta lesa, og bidia bæde fyrer og ææsamt þeim, so og i þvi Lijkamlega, ad umgangast þau, sem Christelegt og sæmelegt er, þar hiæ kostgiæfelega ad hallda þeim til Erfides, og ecke ad leifa þeim nockurt Ydiuleise, edur ad lifa i Siælfræde epter þeirra eigen Villd; Somuleides skulu hans Aminingar vera inþreingiande sier til Barna og Pioonustu-Foolks, ad audsijna þeirra Forelldrum og Yferbodurum alla Elsku, Hlijdne og Vyrding, og med øllum Vilingleika, æn Moglunar og Mootmæla, ad framkvæma þad, sem þeim verdur skipad; En skule Presturen merkia nockurskonar Ohlijdne vid Forelldra eda Yferbodara, og ad þau ecke vilia læta sier med goodu seigiast, þa skal han til hallda Forelldrunum, ad straffa þeirra Børn þar fyrer; Forsoome Forelldrarner þad, þa skal þad skie i Medhiælparana, og jafnvel Prestsens eigen Nærveru; En so framt þeir verda æskinia ad Pioonustu-Foolked ad Oogtudum gierdum Aminingum, framhelldur i sijnum Mootþrooa, þa giefe þeir þad til Vitundar Syslumane og Hreppstioorum, ad þad verde straffad epter þess Framferde.

15.

Prestarner skulu med Kostgiæfne siæ epter þeim Bookum, sem til Daglegrar Ydkunar Gudhrædslunar brwkast i Hwsenu, og giefa Undervijsun um, hvornen þær, sem til eru, skule til Nytsemdar brwkast; Uppæ þad sama skal han læta eirn af Foolkenu i Huusenu lesa, ellegar, ef eingen kan ad lesa, lese þa siælfur eina Grein i eirnre Andlegre Book, og þar af ransake, hvad hvor eirn hefur sier til Uppfrædingar numed, uppæ þad ad han þar af giete reint med hvada Epterhugan og Tileinkan Guds Ord er heyrt, og fære Hentugleik, til ad undervijsa einum og sierhvorium, sierdeiles Forelldrum og Yferbodurum, æ hvorn Hatt Lestur Gudlegra Booka skal hvorn Dag yfervegast, og þar af sijdan tilbærelega examinerast.

16.

Skule aungvar Bækur finast i Hwsenu, hvar ed Foolk kan þo ad lesa, hefur Presturen ad bera Umhiggiu fyrer, ad sa Brestur verde bættur, og skal sierhvor Hwsfader vera skilldugur til, ad kaupa þa Book, sem honum verdur af Prestenum recommenderud og raadlogd. Hvort Presturen skal strax hiæ sier uppteikna, og sijdan æ hentugum Sunudeige i Medhiælparana Nælægd leggia þad hvorium einum fyrer, uppæ þad þeir ecke sijdan skule neita þvi; Þo er hier undanteked Ør-Fætækt Foolk, sem af anara Orlæte og Tilstirk æ ad forsorgast med þeim Naudsynlegustu Bookum. Og Huus-Vitianen er til Enda, sende Presturen Profastenum eina Uppskrift allra þeirra Booka, sem han þarf handa sijnum Søfnude, hvar uppæ Profasturen sende aptur Biskupenum eirn General-Lista yfer þær af ollu sijnu Profasts Dæme, og han aptur giøre þa Raadstofun, ad þær umbednu Bækur verde utvegadar, og uppæ alls Hieradsens Umkostnad burt sendar til Profastana; Og ef einhvor vill ecke i Einrwme betala þær medteknu Bækur, skal Syslumadurens i hvorre

Syslu,

Sysslu, epter Profastaña og Prestaña Aviisan Mootmælalaust iñdriisa Peninganä fyrer þær, so ad þeir iñañ Aars og Dags kuñe ad vera hiaa Profastenum til Reidu, hvor ed Tafarlaust kome þeim til Biskupsens i Stiftenu. Veigre nockur sier vid ad kaupa sier Naudsynlegar og af Prestenum raadlagdar Bækur, bæte þar fyrer tveimur Morkum Donskum, og sie þo samt skilldur til, ad kaupa og betala þær, liika og ad betala hærre Mulct, ef hañ fremur skillde vera Mootþrooanlegur; Hvorre Mulct, Prestureñ og hañs Medhiaalparar skulu veria til ad iñkaupa Bækur handa þeim Faatækustu i somu Sookn; Eñ uppaa þad ad eingeñ Ologleg Sala skule brwkast aa sliikum Bookum, þa skal þrickiast aa Titel-Bladed fyrer hvoria Book, hvad miked hün kostar O-Iñbundeñ.

17.

Skule þar fiñast þau Hws, hvar eingeñ er Læs, þa aa Prestureñ ad hallda Forelldrunum til eda odrum, ad þeir Daglega gange i giegnum med þeirra Bornum og Underhafande þad Liited, þeir sialfer vita i, og skal hañ añars sorga fyrer, ad sliikum Bornum verde komed nidur hiaa odrum Efdum Moñum i Sookneñe, hvar ed þau i Lestre og þeirra Christendoom kuña ad faa Underviisun, hvoriu ad Forelldrunum, med þeirre Assokun, ad þeir sialfer brwke Born siin til Erfides, byriar aa aungvañ Haatt ad setia sig aa moote, med þvi ad þar vid hindrast þeirra Barna þad Saña Besta; þo, med þvi, ad þetta alleinasta skilst uñ þad Foolk, sem lifer i Faatækdoom, og Uñferdar Born, hvorium þar fyrer utañ af Sysslumoñum aasamt Reppstioorunum i allañ mogulegañ Maata, byriar ad hiaalpast, ad þau fyrer añara Orlæte og af Faatækra Tiiundum odlest nockud til Underviisunar i Lestre og þeirra Saaluhiaalpar Peckingu; þa skal þar aa moot þeim Forelldrum, sem sialfer hafa nockra Formegan, eñ ei eru Læser, af Prestenum tilhalldast, og vera skilldugar til, añadhvort sialfer ad wtvega sier Viñu-Mañ eda Viñu-Stwlku, sem kañ ad lesa, og underviisa þeirra Bornum, edur ad koma Bornunum nidur añarstadar, hvar ed þeim fyrer Betaling kañ ad verda underviisad. Fiñest þeir treger þar til, bæte fyrer hvort Barn 4. Morkum Donskum, edur meir epter þeirra Formegan, og sieu samt skyllder til, ad laata þeirra Bornum, sem sagt er, underviisa, hvoriu ollu Prestureñ og hañs Medhiaalparar aasamt Sysslumadureñ og Hreppstioorarner, aan Mañgreinar aalits, hafa ad giefa giætur ad; Skillde nockud af Pionustu-Folke, sem kañ ad lesa a Book, vera so illviliad, ad þad ecke añadhvort villde daglega lesa Huuslestur, ellegar fyrer Bornunum; þa þvi er þad skipad, þa skal Prestureñ fyrst i Medhiaalparaña Aheirn aamiña og advara þad þar uñ, og þa sliikt eckert gagnar, laata þad af Hreppstioorum i 2. Tiima eda leingur, setia i Gapa stockeñ. Veigre eitt Barn sier vid ad læra, og agte ecke Forelldraña Amiñingar og Aga, edur Forelldrarner forsoma þad sama, byriar þeim þar fyrer af Prestenum i Medhiaalparaña Nærlægd tilbærelega ad setiast til rietta.

18.

Prestureñ skal þad Alvarlegasta aamiña Heimiles-Folked ad vakta sig fyrer Onytsamlegum Sogum og Oliiklegum Efeñtiirum og Uppdicktum, sem i Landenu hafa vered

brwkan-

brwkanlegar, og aungvanveigen lijda, ad þær sieu lesnar edur kvednar i þeirra Hwsum, so ad Bornen og þeir Uppvaxande villest ecke þar af; So og skal han tilhallda Foolkenu, ad þeir so vel siælfer, sem og lijka þeirra Underhafande, hallde sig fraa ollum skadlegum Spilum og Leikum, hvada Nafne sem heita kune, epter þvi ad þar af fædest einasta Prættan, Osamlinde, Aflog, og anad Vondt, sem einum Christnum er Osæmelegt, þar hiaa reitest þar med GUD til Reide, og sa Dijrmæte Tijme, sem til Gudrækelegrar Yfervegunar og Nytsamlegs Erfides aa ad brwkast, eidest; Þar um byriar og ad aaminna þa, ad hallda sier og sijnum fraa Hiaa-Trw, sem hiaa einum og odrum skal finast, og þar aa moot undervijsa þeim, hvornen þeir under Hiaastod þess Allra-Hædsta Riettelega kuna ad veita Forstodu sijnu Hwse, uppaa þad ad Guds Dijrd kune Daglega þar vid ad eflast, og honum lifande Mustere tilbwast, i hvoriu han kune ad hafa Listing ad bwa med sine Naad og Blessan.

19.

Prestunum byriar og so med þessum Hentugleik ad hafa Tilsioon um, hvornen Tijundum þeirra Fatæku er skipt medal Sveitarenar edur Sooknarenar Fatækra, og þar hiaa aaminna þa Vel-Megande, ad hiaalpa þeim Naudlijdande i Sookneñe med Laane og Olmusum, i hvoriu og so Prestunum byriar ad ganga undan med eimu goodu Epterdæme, epter þeirra Efnum og Formegan.

20.

So sem Presturen aa ad uppbyria Huus-Vitianena med inelegre Bæn og Akalle i allra Nærveru, ad Gud vilie leggia sijna Blessan til þessa Aforms, so byriar honum og ad enda med Bænene, og þar hia ad inræta Hiortum þeirra Naalægu þessa Efnes ypparlegleik og stooru Naudsyn, so og hvor ad sie sierhvers Skyllda þar epter, til Daglegrar Endurminingar og Upporfunar fyrer þa, til hins Gooda.

21.

Og uppa þad Presturen þvi helldur kine ad vita og minast fundens Asigkomulags sijns Safnadar, og giora Skil fyrer þvi, nær þess af Biskupenum edur voru Kyrkiu Inspections-Collegio kan ad verda oskad; Þa skal þad hier med ollum Prestum a Islande Allranaadugast vera befalad, ad eirn og sier hvor af þeim samantake yfer hans tiltrwadan Sofnud eitt Mantals Registur uppa Gamla og Unga, Gipta og Ogipta, og i þvi sama i vissum Daalkum infæra eins og sierhvers Tilstand og Asigkomulag hvada Grundvoll þeir hafa i sijnum Christendoome, hvort þeir kune ad lesa a Book edur ei, hvad mørg Born og Hiw þeir hafe, þeirra þecking og framferde, hvornen þeim er stiornad, hvada Book þar brwkast til Daglegs Hws-Lesturs og Gudhrædslunar Ydkunar, hvornen ad þeir Olldrudu veita Forstodu þeirra Hwse, hvort þeir eru aller aastundunarsamer og Samhuga med odru fleira.

22.

Þær Peninga-Mulcter, sem i fyrtiedan Maata Forbriootast og Inheimtast, skulu af Prestunum med Raade hans Medhiaalpara vixlast til þeirra Fatæku og mest Purfande Barna Undervijsunar, hvar um honum byriar sijdan ad giefa

Profast-

Profastenum Undervijsun. Ef nockur Versleg Yfervallds Persona skillde giera Undanbrogd, ad iñkrefia soddañ Mulcter, edur sia i giegnum Fijngur vid þa Seku, ad þeir ei yrde straffader, skal hañ fyrer Undandraatt hvors Maanadar giefa 2. Rigs Dale til hiñar somu Brwkunar. Bere þad til añad Ar aptur uppa Nij, þa Tvofallt so miked, eñ i þridia siñ, suspenderest hañ fra Embættenu, hvar um Vor Amtmadur skal hafa Tilsioon, so sem vier þess vegna hofum Allranaadugast tilskickad Embættes-Meñ og Yfervallds Personur i Landenu, ad þeir Alvarlega skule tilhallda, ad Vorum Allranaaduguſtu Befalingum af einum og sierhvorium Allra-Underdanugast verde Streingelega epterlifad.

23.

Fyrer utañ þessa soleides Allra-Naadugast befalada Huus-Vitian, skulu Prestarner og vera til Reidu og Reidubwner, ad vitia hiña Siwku i þeirra Sofnudum, nær þeirra er Oskad, ad undervijsa þeim af GUDS Orde, hvorneñ þeir i þeirra Siwkdome, epter þeirra Saalar Tilstande, hafa sier ad haga og ad aamiña hina adra a Heimilenu, ad ganga þeim Siwku til Handa med Daglegum Lestre og Stadfostu og Gudrækelegu Bæna Akalle og Upporvan, so hañ alltijd kuñe ad halldast i Andagt, ad upplipta sijnu Hiarta til GUDS; So byriar og Prestenum ad aamiña siñ Sofnud, ad hañ aan Dvalar tilkyñe honum, nær einhvor er ordeñ Siwkur, uppa þad hañ jafnvel Okalladur þess optar giete komed þangad, sem hellst þarf vid. Þa Prestureñ er sooktur til hiñs Siwka, byriar Hwsbondanum ad laata færa hañ Fram og til Baka, nær Prestureñ þess Oskar.

24.

Prestarner skulu under þeirra Embættes Topun vakta sig fyrer, ad mæda þa Siwku med nockurslags hneixlunarlegu og Otilhlijdelegu Tale, um þa Hlute, sem kuñe ad hindra þa fra tilhlijdelegum Underbuninge til saaluhiaalplegrar Endaliktar.

25.

So sem nu Iñehalld þessarar Vorrar Allranaaduguſtu Forordningar alleinasta horfer til Vijdfrægingar Guds Dijrdar og hañs Kiñingar og til Framkvæmdar þeirrar tijmanlegu og eilijfu soñu Velferdar Safnadaña i voru Lande Islande; Og vier i soddañ Ihugan, hofum þad Allranaadugasta Traust, ad hun verde med Kostgiæfne og Arvekne af þeim Andlegu a Islande af eigen Adkalle allra underdanugast uppfyld og epterlifad; Þa bioodum vier þo hier med og Allranaadugast befolum Vorum Superintendentum a greindu Voru Lande Islande, ad þeir sierhvor i honum Allranaadugast tiltrwudu Stipte jafnañ og ætijd hafe vakande Auga þar yfer, ad þessare Vorre Allranaaduguſtu Forordning verde af ollum Geistlegheitunum alvarlega epterlifad, aan þess hañ sialfur, ef nockur Brestur nu edur sijdar skillde þar i fiñast, vilie svara þar til; Uppa þad skal hañ kostgiæfelega spyriast fyrer hia underhafande Profostum i Stiptenu hvorneñ um þessa Embættes Utrietting framfare, og sierdeiles i sijnum Visitatzium openberlega epter spyria, hvort slijkar Hws-Vitianer framfare, og hvorneñ; Somuleides

 under-

undervijsa Profostum um̃ þeirra Nytsemd og Naudsynlegleika, þar ed þeir i sama Maata skulu vera skilldugir til, ydugelga ad upporva Kẽnedomẽn i þeirra Profastsdæme til allrar Gudlegrar Vandlætingar hier i, og, þa nockur Brestur hiaa einum edur ødrum fiñst, Hañ þar um̃ first skriflega ad advara, eñ ef eingeñ Endurboot fylger, þa Presteñ aan Mañgreinar-Alits, fyrer Biskupenum ad angiefa, uppa þad hønum verde til Presta Samkomu stefnt, og epter Forþienan aaliteñ.

Forsoomest þetta af Profostunum, skulu þeir sialfer vera Biskupsens Tiltale Undergiefner. Þvi bioodum Vier hier med og befølum Vorum Stiftbefalings-Mañe, Biskupum, Amtmañe, Løgmoñum, Syslumoñum og ødrum sem þesse Vor Forordning verdur tilskickud, ad þeir hana aa tilhlijdelegum Stødum, til allra Epterrettingar strax laate lesa og kuñgiora. Giefeñ aa HIRSCH-HOLMS Slote þañ 27. Maji, Anno 1746.

Under Vorre Kongligre Hende og Signete.

**Christian R.**

**LS**

Epter Allra-Naadugastre Skickan til mijn underskrifads, Dateradre aa HIRSCHHOLMS Slote, þañ 27. Maji 1746. Er þesse Allra-Naadugasta Forordning um̃ Huus-Vitianer aa Islande, þañig sem her siest, wtløgd aa Islendsku, epter þvi Danska Exemplare, og laateñ wtgaanga aa Prent.

Test. Stada-Stad þañ 6. Augusti Anno 1746.

HALLDOR BRINIOLFS-SON.